# Auglýsing.

Vegna lángvinns og med ellinni vaxandi veikleika míns, hefi eg ásett ad selja eign mína og bústad Videyar Klaustur þeim, sem fyrir þann 8da Júlíí næstkomanda gjøra kynni mér, eda, ef eg skyldi fyrr burtkallast, þá børnum mínum hærst og adgengilegt bod. Alkunnugt er, ad jørd þessi hefir verid og er álitin hin stærsta og besta í landinu, bædi vegna sérlegra landkosta og ædarvarps, sem og hins, ad jørdunni fylgir þad stærsta og rambygdasta grunnmúrad hús, sem hér í landi er til, hverju og vel hefir verid vid haldid, þarhjá jafn rammbygd grunnmúrud kirkja; hverttveggja húsid er mér af Konúngi med jørdunni allranádugast afsalad til fullkominnar eignar, og hvílir á þessu engin skuld. Eins og tún og varp er af mér stórum betrad, svo eru og húsin med ærnum kostnadi endurbætt.

Skilmálarnir vid kaup og afhendíngu þessarar eignar eru þessir: Hús øll, sem hér eru, fylgja kaupinu, ad fráskildu húsi því, er Prentverkid er í og hinu minna fjósi, þar á mót fylgir hid stærra fjós fyrir 30 kýr, samt øll ønnur geymslu- og peninga-hús; helmíngur þess bodna andvirdis, ef adgengilegt þykir, betalist þann 6ta Júníí 1834, þá kaupandi fyrst fær jørdina til umráda brúkunar og notkunar sér afhendta, en hinn annar helmíngur andvirdisins má, mót lagarentu og fyrsta Prioritets pantrétti í eigninni, standa hjá kaupanda óborgadur, medan honum svo þóknast kynni; rentur og þad kaupandi kynni meira borga vilja af þessum sídara helmíngi, borgist og medtakist einusinni á ári hverju þann 11ta Júníí.

Því umbidjast lysthafendur, sem kaup þetta girnast, ad tilkynna mér, eda ef eg væri fyrr frá fallinn, børnum mínum sameiginlega, þeirra hærsta bod í reidu silfri uppá eign þessa innan 8da Júlíí þessa árs, þá afsalsbréf, ef adgengilegt bod býdst, skal verda þeim hærstbjódanda afhendt skømmu sídar.

Videyar Klaustri þann 1ta Martíí 1833.

M. Stephensen *Dr.*

Conferencerád og Justitiarius í þeim konúnglega Landsyfirrétti.